# FORNALDAR-LEIFAR,

## um hvöriar hin Konúnglega Nefnd til þeirra vidurhalds óskar sèr tilhlýdilegrar skírslu.

---

1) Haugar edr *Fornmanna-leidi*, sér í lagi þeir er hafa þad sköpulag er sýnir berlega, ad þeir séu af mönnum giördir — edr ad lík hafi verid í þeim skiplögd, ellegar þeir sem eru edr hafa verid umkríngdir med settum steinum — svo og manna grafir edr stein-þrór er finnast kynnu á vídavángi. [Adgjætandi er vid opnun slíkra hauga ad gröfinn ej sé gjörd beint frá toppnum, þar stórar hellur optastnær liggia yfir byrginu siálfu, heldr ættu menn þa helst ad grafa op a austur- edr sudur-hlid haugsins.]

2) *Stórir Steinar* edr *Klettar* sem líklegt er ad reistir séu af mönnum, edr önnr mannaverk séu á. Hér til heira í Islandí þau svokölludu *Grettirstök.* Nefndin æskir sér greinilegrar skírslu um slíkra steina afstödu, tölu, stærd og sköpulag, hvarvid og ætti ad adgiætaz, hvört þeir efri steinar er liggia á undirstödu-klettum, ecki megi hrærast, ef fastlega er á þeim tekid, og þannig leiki á nokkurskonar völturum. Nockrir slíkir klettar voru í heidni kalladir *hörgar.* *) Serílagi óskaz greinileg skírsla um þá svokölludu *blótsteina* á fornum hof- edr þíngstödum — og um adrar heidindómsins leifar er enn þá kynnu meinast ad vera til.

3) *Fornir þíngstadir* edr *Dómhríngar* á vídavángi er fyrrum hafa verid umkríngdir med steinum edr veböndum í hríng edr ferkant. Þesshàttar leifar finnast líklega enn í dag á *þórsnesi* í Snæfellssyslu.

4) *Rúnasteinar,* edr steinar, á hvörium fornir Rúnastafir eru edr hafa verid siáanlegir hvar helst sem þeir finnast kunna hvört sem steinarnir eru heilir edr brotnir. Flestir Rúnastafir eru þannig útlítandi:

ᚠ ᚢ ᚦ ᚮ ᚱ ᚴ ᚼ ᚽ ᛁ ᛅ ᛋ ᛏ ᛘ ᛒ ᛚ

Stundum finnast slíkar ritgjördir í hellrum og á stórum biörgum.

5) Sömuleidis adrar fornar, grafnar edr úthöggnar ritgjördir med rúnum, höfdaletri edr ödrum líttkunnum stöfum, í Kirkium, Kirkiugördum edr annarsstadar, á triá- edr málm-smídí, klukkum, kaleikum, skírnarfötum o. s. frv. — eins þótt þær séu ofnar edr saumadar á höklum, altarisklædum, veggia-tiöldum o. s. frv.

Höfda- edr Múka-letr er nockurskonar settaskrift, snúinn edr köntud á undarlegan hátt t. d.

SIE Sie, edr

AR Ar o. s. frv.

*) Um slíka hörga gétr *Landnámu* 2 Parts 16 Kap. vid *Krosshóla* i Dalasyslu og Kristnisögu 11 Kap. á *Hörgaeyri* í Vestmannaeyum. Ey er ólíklegt ad þeir kynnu enn ad finnast vid stadi, hvörra örnefni eru af þeim dregin t. d. *Hörgssholt* o. s. frv.

6) Gamlar *Mindir* og *Bilæti*, af hvöriu efni sem vera kunna, hvört heldr þau eru tálgud, grafinn, úthöggvinn edr útskorinn, málud, ofin edr saumud.

7) Allskyns leifar úr pápískri öld t. d. Krossmörk, helgra manna Mindir, Reikelsis- edr Vígsluvatns-kér, Paxspiöld edr altarissteinar, pergamentsskiöl edr bækr o. s. frv.

8) Rústir edr leifar af *Fornmanna-byggingum*, er á einhvörnhátt kynnu ad vyrdast merkilegar, sérílagi af virkium, málm- edr rauda-smidium, undirgaungum o. s. frv.

9) Alt hvad upp er grafid edr hérepter kann ad uppgrafaz úr jördu edr haugum, t. d. Vopn úr steinum edr málmi, Herklædi, hríngar, festir, nisti, verktól, Drykkiar- edr blástrar-horn, bikarar, myntir edr peníngar, bílæti o. s. frv.

10) Sögusagnir medal almúgans um fornmenn, (adrar enn þær sem til eru í ritudum sögum) merkileg pláts, fornan átrúnad edr hiátrú á ymsum hlutum, sérlega vidburdi o. s. frv., einkum nær þær vidvíkia slíkum fornalldarleifum.

---

Um alla þesshátter hluti, hvar sem þeir eru, hvört heldr þeir geimast í Kirkium, edr annarsstadar, og hvörium sem þeir kunna til ad heira, væntir hin fyrrtéda Nefnd, ad henni eptir konunglegri fyriskipan, tilsendist þær eptir æsktu skírslur, svo fliótt sem skéd gétr, ritadar á íslendsku, dönsku edr látínu, á vidlagt blad, í innsigludum bréfum híngad til Kaupmannahafnar med þessari Utanáskrift: *"Til den Kongelige Commission for Oldsagers Opbevaring i Kiöbenhavn."*

---

# Greinileg Frásaga

um merkilegar fornaldar-leifar í sókn innan sýslu, eptir fyrimælum hinnar konúnglegu nefndar til slíkra hluta vidurhallds.